# NÖRD NORÐURSINS

2. TBL. 2011
FRÍTT EINTAK!

PEWPEWPEWPEWPEWPEWPEWPEWPEWPEW

THE SECRET WORLD

PORTAL 2

SAGA LEIKJATÖLVUNNAR

DISKHEIMURINN: KVIKMYNDUN VS. PERSÓNULEG SÝN

TOPP 10 ANDROID APPS

MORTAL KOMBAT

ÓKEYPIS EINTÖK AF NÖRD NORÐURSINS
UM TÍMARITIÐ
NÝ OG ÖFLUGRI VEFSÍÐA Í VINNSLU

FRÉTTIR OG TILKYNNINGAR
REGLULEGAR UPPFÆRSLUR
MYNDIR
TENGLAR

FRÉTTIR OG TILKYNNINGAR
REGLULEGAR UPPFÆRSLUR

NÝJUSTU MYNDIRNAR
MORTAL KOMBAT MEISTARAMÓTIÐ
EVE ONLINE FANFEST 2011
UTMESSAN
NETIÐ EXPO

MYNDSKEIÐ FRÁ NÖRD NORÐURSINS
EVE ONLINE FANFEST 2011
MORTAL KOMBAT MEISTARAMÓTIÐ
PEWPEWPEWPEWPEWPEWPEWPEWPEW

## Kæri nörd!

Fyrir um mánuði síðan kom fyrsta tölublaðið af Nörd Norðursins út. Viðbrögðin hafa verið mjög góð og þó nokkur athygli beinst að tímaritinu. Meðal annars birti vefmiðillinn Tíminn stuttan pistil um blaðið, Sannleikurinn.com vakti athygli á blaðinu, Fréttablaðið birti stutt viðtal við mig í tengslum við blaðið og íslensk leikjasamfélög á borð við esports.is, xbox360.is og psx.is hafa tekið vel á móti þessu nýja nörda tímariti sem yfir 2.000 Íslendingar hafa nú lesið.

Þó nokkrir hafa spurt hvort blaðið sé á leiðinni í prent, en eins og málin standa í dag verður tímaritið aðeins aðgengilegt á netinu en við vitum þó ekki hvað framtíðin ber í skauti sér. Einnig hefur mörgum þótt óljóst hve oft veftímaritið muni koma út, en það kemur út mánaðarlega – eða fyrsta mánudag hvers mánaðar. Þriðja tölublaðið kemur þar af leiðandi 6. júní næstkomandi. Við bendum einnig á að stór uppfærsla á vefsíðu blaðsins, www.nordnordursins.is , er væntanleg í þessum mánuði.

Ég vil þakka pennum tölublaðisins kærlega fyrir skrifin, en það hafa nokkrir nýir bæst við frá því síðast. Vonandi eigum við eftir að sjá meira af innsendu efni í framtíðinni frá þeim, og vonum að sjálfsögðu að enn fleiri eigi eftir að bætast í hópinn.

Innihald blaðisins samanstendur, líkt og fyrsta tölublaðið, fyrst og fremst af tölvuleikjum og leikjatölvum. Það er aðallega vegna þess að þeir sem hafa verið að skrifa í blaðið hafa mestu þekkinguna á tölvuleikjum, en við óskum einnig eftir efni sem tengist öðrum hlutum sem mega teljast nördalegir; bækur, borðspil, fræðigreinar, forritun, kvikmyndir og fleira. Þó að meirihluti efnisins snýr að tölvuleikjum má finna annað efni sem tengist m.a. *Discworld*, Android símum, kvikmyndum og fleiru.



Ég vona að sem flestir eigi góðan og skemmtilegan lestur framundan!

Bjarki Þór Jónsson, ritstjóri


NÖRD NORÐURSINS

WWW.NORDNORDURSINS.IS
NORDNORDURSINS@NORDNORDURSINS.IS

RITSTJÓRI: BJARKI ÞÓR JÓNSSON
UPPSETNING: BJARKI ÞÓR JÓNSSON
PRÓFARKARLESTUR: ERLA JÓNASDÓTTIR, DANÍEL PÁLL JÓHANNSSON





AUGLÝSINGAR:
ERLA JÓNASDÓTTIR,
NORDNORDURSINS@NORDNORDURSINS.IS

FACEBOOK: WWW.FACEBOOK.COM/NORDNORDURSINS
TWITTER: WWW.TWITTER.COM/NORDNORDURSINS
FLICKR: WWW.FLICKR.COM/NORDNORDURSINS
YOUTUBE: WWW.YOUTUBE.COM/NORDNORDURSINS















# EFNISYFIRLIT

## GAME TÍVÍ Í FRÍ

Síðasti þátturinn í 9. seríu *Game Tíví* var síðastliðinn fimmtudag 28. apríl. Þættirnar munu hefjast aftur næsta haust, en þangað til er hægt að horfa á þættina á heimasíðu síðunnar – www.gametivi.is .



## ORÐRÓMUR: FRÍTT PORTAL 2 DLC

*Portal 2* orðrómur um að fyrsta DLC-ið fyrir leikinn muni vera frítt fyrir allar útgáfur (Steam, Xbox 360 og PS3).

## PSN LIGGUR ENN NIÐRI

Síðan 20. apríl hefur PlayStation Network legið niðri vegna tölvuþrjóta. PlayStation menn segja að mögulega hafi viðkvæmum upplýsingum verið stolið um notendur. Við mælum með því að PSN notendur breyti lykilorðum sínum hið snarasta.




Sony hefur tilkynnt að PSN mun koma aftur upp innan skamms.

## PS NOTENDUR SKOÐA XBOX

GamePolitics greinir frá því að um fimmtungur PlayStation notenda íhugi nú þann möguleika að nota Xbox 360 í stað PlayStation 3. Ástæðuna má rekja til PSN sem tölvuþrjótar náðu að hakka sig inn á. Margir *PSN* notendur hafa áhyggjur af því að tölvuþrjótarnir hafi komist í persónuleg gögn.

Heimild: GamePolitics.com, „Survey: A Fifth of PS3 Owners Considering Move to Xbox 360".

## RIP GOOGLE VIDEO

Í apríl sendi Google frá sér tilkynningu þess efnis að Google Video mun hætta. Þeir sem hafa hlaðið inn myndskeiðum geta sótt þau, en 13. maí verður öllum myndskeiðum eytt. Google Video er ekki ólíkt YouTube, en hefur þó aldrei náð sambærilegum vinsældum og síðarnefnd síða.

## NINTENDO „WII 2"

Sterkur orðrómur hefur þotið eins og vindurinn um helstu leikjasíðurnar að Nintendo sé að vinna að gerð „Wii 2" og hefur verkefnið fengið dulefnið „Project Cafe". Samkvæmt orðrómnum eru leikjaframleiðendur þegar komnir með eintak af tölvunni í hendurnar og verður hún kynnt almenningi á E3 sýningunni í júní á þessu ári og á „Wii 2"að vera væntanleg í verslanir í lok árs 2012. Í lok apríl staðfesti Nintendo að ný leikjavél sem myndi taka við af Wii væri í vinnslu hjá þeim og að hún yrði kynnt á E3 sýningunni í júní.

Nintendo fór ekki nánar í málið en orðrómanir segja að: tölvan geti spilað leiki í HD gæðum, að hún verði töluvert öflugri en PlayStation 3 og Xbox 360, að innbygður HD skjár verði á tölvunni, að á fjarstýringunni sé innbygður sex tommu snertiskjár og myndavél, að innihald vélarinnar samanstandi af IBM PowerPC CPU, ATI R700 series CPU og að minnsta kosti 512MB RAM, að hægt verði að senda efni úr tölvuleiknum í leikjavélinni yfir í fjarstýringuna, að vélin styðji hreyfistýringar með betri möguleikum en PlayStation Move.

Heimild: Kotaku.com, „The Great Big 'Wii 2' Rumor Round-Up", og Geekosystem, „Nintendo Confirms Wii 2 for 2012"

## TÖKUR Á THE HOBBIT HAFNAR

Tökur á kvikmyndinni *The Hobbit* í leikstjórn Peter Jackson eru hafnar. Sagan verður sögð í tveimur pörtum og er fyrri parturinn væntanlegur í kvikmyndahús í lok næsta árs.

## LOCATIFY OG THE ROYAL WEDDING

Íslenska fyrirtækið Locatify gaf út smáforritið *The Royal Wedding* í

tengslum við brúðkaup Vilhjálms Bretaprins og Katrínar Middleton sem fór fram 29. apríl. Forritið virkar í iPad og iPhone og þannig geta notendur fundið allar upplýsingar um brúðkaupið – allt frá gestalistanum og yfir í brúðarkjólinn. Fancy Pants Global hjálpaði til við forritunina og tók um einn og hálfan mánuð að koma forritinu af borðinu og í vefverslanir.




## KINDLE – NÚ MEÐ AUGLÝSINGUM

Amazon tilkynnti í síðasta mánuði að ódýrari útgáfa af Kindle væri væntanleg. Gripurinn mun kosta 25 bandaríkjadölum minna en sambærileg Kindle, en ástæða þess að nýja útgáfan er ódýrari er sú að á henni munu auglýsingar birtast af og til sem lesandinn þarf að skoða. Nýja græjan kallast Kindle With



Special Offers.

Heimild: Mashable, „Amazon Announces Cheaper, $114 Kindle With Ads“

## ÓKEYPIS MYNDASÖGUDAGURINN

Við minnum á Ókeypis myndasögudaginn sem er laugardaginn **7. maí** og mun Nexus taka þátt í þeim degi.

## CCP OG GJALDEYRISHÖFTIN

Þeir hjá CCP hafa bent á í fjölmiðlum að gjaldeyrishöftin sem ríkja hér á landi séu afar slæm fyrir CCP og önnur íslensk fyrirtæki í sambærilegri stöðu.

Gjaldeyrishöft eru stundum sett á þegar takmarkaður gjaldeyrir er til staðar, líkt og á Íslandi. Hilmar Veigar, framkvæmdastjóri CCP, benti í þættinum *Hvert stefnir Ísland?* á RÚV að fyrirtækin fara úr landi vegna þess fyrirkomulags sem ríkir hér á landi – og með fyrirtækinu fara forstjórar og stórir tekjumöguleikar.

Hilmar Veigar hefur einnig bent á það að gjaldeyrishöftin ýti undir það að fyrirtækin flytja starfsemi sína út fyrir Ísland og skapar jafnframt vandamál fyrir erlenda sérfræðinga sem vinna tímabundið hér á landi og ætla svo að taka peningana sína með sér heim.

## CLARA TIL SAN FRANCISCO

Íslenska hugbúnaðarfyrirtækið CLARA opnaði sölu- og markaðsskrifstofu í San Francisco í Bandaríkjunum á dögunum. CLARA sérhæfir sig í að fylgjast með og greina umræður í tölvuleikjasamfélögum og sigtar út þær upplýsingar sem nýtast viðskiptavinum til að skilja betur leikjanotendur.

## NÝR STJÓRNARFORMAÐUR IGI

Sigurlína Valgerður Ingvarsdóttir er nýr stjórnarformaður Icelandic Gaming Industry (IGI) og mun hún taka við af Erlu Bjarneyju Árnadóttur. Sigurlína er menntaður iðnaðarverkfræðingur og vinnur sem yfirframleiðandi á þróunarsviði CCP.

Heimild: Pressan, „Formannsskipti í Icelandic Gaming Industry (IGI“.

## LAUMAR ÞÚ Á FRÉTT?

Ef þú laumar á frétt fyrir nörda sendu okkur línu á nordnordursins@nordnordursins.is

## WWE ALL STARS

*WWE All Stars* kom út 1. apríl á PS2, PS3, PSP, Wii og Xbox 360. Í leiknum geta spilarar valið á milli fyrrverandi og núverandi glímukappa og er Hulk Hogan þeirra á meðal. Leikmenn geta valið margar gerðir af bardagareglum; hefðbundinn bardaga, bardaga í búri, hópbardaga og fleira. Jafnfram er hægt að skapa sína eigin persónu til að berjast með eða á móti tröllunum í WWE.

Bardagastíllinn er stórlega ýktur þar sem persónunar stökkva gjarnan marga metra upp í loftið til að framkvæma brögð. Leikurinn er annars nokkuð hefðbundinn glímuleikur sem er fyrst og fremst ætlaður WWE unnendum.




## SHIFT 2

Um þar síðustu mánaðarmót kom bílaleikurinn *Shift 2: Unleashed* út. Leikurinn er hluti af Need for Speed seríunni sem flestir ættu að þekkja. Leikurinn hefur fengið gríðarlega góða dóma og einn af þeim bílaleikjum sem er skemmtilegur og góður í spilun - sama hvort þú ert bílaleikjaunnandi eða ekki.



## FLEIRI GÓÐIR

Aðrir leikir sem komu út í síðasta mánuði og vert er að nefna eru: *SOCOM 4: US Navy SEALS* (PS3), *The Conduit 2* (Wii) og *Final Fantasy IV: Complete Collection* (PSP).

## LEIKIR Í MARS

Heitustu titlarnir í maí mánuði eru án efa vísindaskáldskaps skotleikurinn *Brink* og *L.A. Noire* sem er saga sem á að gerast seint á fimmta áratug síðustu aldar.

Auk þessara titlar eru *The Witcher 2: Assassins of Kings, F.E.A.R. 3, MotorStorm Apocalypse, Thor: God of Thunder, Dirt 3, LEGO Pirates of the Caribbean: The Video Game, MX vs. ATV Alive* og *Dead or Alive Dimensions*.



## LÖGUM UM BARNAHALD BREYTT

Ritað 11 apríl 2011 af Tyrannosaurus Kex



Alþingi samþykkti í dag breytingar á lögum um barnahald í fjölbýlishúsum. Hér eftir verður vera ungra barna í fjölbýlishúsum háð samþykki tveggja þriðju hluta eigenda sem hafa sameiginlegan inngang eða stigagang.

Áður þurfti ekki samþykki íbúa í fjölbýlishúsi til að eiga börn og hafa heima hjá sér, en breytingartillaga Helga Hjörvars gekk út á að samþykki tveggja þriðju hluta íbúa þarf til að þau séu leyfileg.

Tillagan var samþykkt með þrjátíu og sjö atkvæðum gegn þremur, en Katrín Jakobsdóttir, Unnur Brá Konráðsdóttir og Vigdís Hauksdóttir greiddu atkvæði gegn tillögunni. Þá var einnig samþykkt að sé íbúi lágtekjumanneskja sem vegna fjárskorts þurfi á barnabótum að halda sé honum heimilt að punga út börnum óháð öðrum íbúum.

Þó skuli kærunefnd húsamála leita lausna á málum ef íbúi fjölbýlishúss er með ofnæmi fyrir börnum á svo háu stigi að sambýlið við barnið sé óbærilegt.

## OFURHETJA BLANDAR SÉR Í ICESAVE-DEILUNA

Ritað 12 apríl 2011 af SG

Ofurhetjan Icesaver hefur lýst yfir stuðningi við málstað Íslendinga í Icesave-deilunni, og kemur til með að bregðast hart við öllum aðgerðum Breta og Hollendinga á hlut landsmanna.

„Ef þeir eru „vonsviknir" núna, þá verða þeir, að allra minnsta kosti, „forviða" þegar ég hef lokið mér af.", sagði Icesaver á blaðamannafundi nú síðdegis, sem einhverra hluta vegna var haldinn á Bessastöðum.
Þá útskýrði hann fyrir fréttamönnum hvernig hann hyggðist „dreyfa náttúruleysi og undirmennsku meðal nýlenduveldanna", eins og hann orðaði það.

Ágreiningur er á milli helstu fræðimanna um hver uppruni Icesavers kunni að vera, flestir telja þó að hann sé viðskiptafræðingur sem hrasaði ofan í ruslagám sem var fullur af stökkbreyttum afleiðuviðskiptasamningum.
Önnur kenning er að hann hafi verið venjulegur skuldari með myntkörfulán, og að forsendubresturinn við hrun krónunnar hafi haft áhrif á genamengi hans.

Stjórnvöld hafa í kjölfarið sent frá sér yfirlýsingu þess efnis að þau ætli ekki að eyða meiri orku eða peningum í þessa deilu, því orðið sé ómögulegt að ætlast til þess að nokkur maður geti tekið hana alvarlega.



MEIRA Á SANNLEIKURINN.COM

# The Secret World

eftir Benedikt Aron Salómeson



Nýjasti leikur tölvuleikjafyrirtækisins Funcom, *The Secret World* (*TSW*), hefur fangað mikla athygli um netheima nýlega eftir að tölvuleikjarisinn EA Games ákvað í janúar síðastliðnum að aðstoða við útgáfu leiksins. Funcom hefur áður gefið út leiki á borð við *Bloodline Champion*, *Age of Conan* og *Pets vs Monsters*.

*The Secret World* er MMORPG (Massive Multiplayer Online Role-Playing game) og fer spilarinn með hlutverk hetju sem hann býr til. Það sem *TSW* hefur hinsvegar umfram aðra MMO leiki, eins og *World of Warcraft*, *Runescape*, *Guild Wars* og fleiri, er að spilarinn velur sér ekki sérhæfileika heldur eru allir þeir sem spila leikinn gæddir sömu kröftum og þarf að virkja þá í gegnum hæfileikatré. Auk þess er ekkert frammistöðukerfi (e. leveling system) þannig allir spilarar eru jafnir frá byrjunarstigi. Það eina sem brúar bilið á milli spilara er reynslan. Útkoman er algjörlega frjáls spilun sem er alveg ókönnuð af flestum öðrum leikjum hingað til.

## FRJÁLS AÐLÖGUN

*TSW* gefur spilaranum þúsundir vopna og krafta sem hann getur aðlagað að sínum stíl, hvort sem spilarinn vill vera sá sem hjálpar til og læknar vini sína í hita bardagans, sá sem fórnar sér fyrir heildina eða jafnvel blanda af báðum hlutverkum, gefur *TSW* spilaranum kraftana sem til þarf. Ásamt því hefur hann fullkomna stjórn yfir hvernig hetjan hans lítur út, og hefur verið lagt mikið í að hafa eins mikið úrval af klæðnaði og hægt er.

## KANNAÐU HEIMINN

Leikurinn byggir á rauntímanum

og gerist hann að mestu í þremur stórborgum, New York í Bandaríkjunum, London á Englandi og Seoul í Suður-Kóreu. Ásamt fleiri framandi stöðum eins og Egyptalandi og Transylvaníu. Stórborgirnar virka líka sem ákveðnar bækistöðvar fyrir samfélögin þrjú sem spilarinn velur á milli þegar hann býr til hetjuna sína, kem betur að því síðar. Um allan heim eru margar óhugnanlegar verur sem spilarinn þarf að berjast á móti til að komast að leyndardómum og fjársjóðum. Verurnar geta verið allt frá hinum klassísku varúlfum og vampírum, til hinna frumstæðu risaeðlna.

## ÓTRÚLEGUR SÖGUÞRÁÐUR

Framleiðendur *TSW* hafa lagt mikið á sig til að hafa söguþráð leiksins meðal þess besta sem áður hefur sést í öðrum tölvuleikjum. Spilaranum er stungið djúpt inn í söguþráð fullan af spennu, drama og skemmtun. Söguþráðurinn tekur helstu samsæriskenningar, helstu ævintýri og gerir þau að raunveruleg í leiknum. Hvern hefur ekki alltaf langað til að berjast við Drakúla, eða jafnvel að berja Loch Ness skrímslið augum? Auðvelt á að vera að lifa sig inn í verkefnin sem spilaranum eru sett og segja framleiðendur að þeir hafi viljað forðast endurtekninguna sem margir MMO tölvuleikir hafa bætt við í leikina sína.

## LEYNILEG SAMFÉLÖG (SECRET SOCIETIES)

Í leiknum eru þrjú mismunandi samfélög sem spilarinn fær að velja um.

### TEMPLARS

Templars er gamalt samfélag sem rekur sögu sína allt til tíma Babylons. Þau eru ljón leynda heimsins og þegar þau segja sínar skoðanir hlusta allir. Evrópa er þeirra ríki og hafa þau sett niður höfuðstöðvar í London. Þau eru „góðu“ gæjarnir, að þeirra sögn. Þau ráða hverjir eru vondir og góðir og bakka aldrei frá stríðsátökum. Í yfir þúsundir ára hafa þeir haft eitt markmið í huga, að eyða öllu illu í heiminum.

### ILLUMINATI

Illuminati eiga fornar rætur að rekja en eru enn ung og þyrst í völd. Þau „stálu“ Bandaríkjunum undan nefi Templars og hafa vaxið með því. Þau spila leiðinlega, nota illkvittin brögð til að koma sér áfram og nýta hvert tækifæri sem gefst til að kúga einhvern til að fá vilja sínum framgengt. Höfuðstöðvar þeirra er Brooklyn, New York.

### DRAGONS

Dragons er leynilegra en leynilegustu samfélög. Þeir eiga sér landamæri og engin kennimerki og hafa því leyst upp og komið aftur saman í gegnum tíðina. Þau trúa því að lokað samfélag sé sjúkt samfélag. Aðeins með náttúrulegri óreiðu lífsins getur heimurinn lifað í sátt. Fyrir utangarðsmanni eru leiðir þeirra flóknar og skrítnar, en ekki fyrir þeim. Dragons hafa nýlega sett upp höfuðstöðvar í Seoul, Suður-Kóreu.

Á heimasíðu leiksins, www.thesecretworld.com , er hægt að taka könnun sem gefur manni hugmynd um hvaða fylkingu maður myndi passa inn í. Höfundur tók prófið og fékk út að **The Templars** væru hentugt fyrir hann. Hvað færð þú?

# PENNAR ÓSKAST!

NÖRD NORÐURSINS ÓSKAR EFTIR PENNUM Í BLAÐIÐ TIL AÐ FJALLA UM NJARÐARLEG EFNI. ÁHUGSAMIR HAFIÐ SAMBAND VIÐ BJARKA Á NORDNORDURSINS@NORDNORDURSINS.IS

# LAUMAR ÞÚ Á FRÉTT?

SENDU OKKUR EFNI EÐA ÁBENDINGU Á NORDNORDURSINS@NORDNORDURSINS.IS

# HEFUR ÞÚ ÁHUGA Á AÐ AUGLÝSA Í TÍMARITINU?

HAFÐU ÞÁ SAMBAND VIÐ HANA ERLU Á NORDNORDURSINS@NORDURSINS.IS




# TOPP 10 ANDROID APPS

## FYRIR ÍSLENSKA NOTENDUR

*eftir Helga Þór Guðmundsson*

Árið 2010 var ár Android á Íslandi. Símar sem innihéldu þetta frábæra stýrikerfi frá Google hrúguðust inná markaðinn og sköpuðu fyrstu alvöru ógnina við vinsældir Iphone. Android símar eru vandaðir og á mjög sanngjörnu verði. En hvað gerir það að verkum að snjallsímar skapa janf vinsæla upplifun og raun ber vitni? Það eru smáforritin sem eru dagsdaglega kölluð enska heitinu Apps. Smáforritin gera notendum kleift að sækja sér fjölbreytt úrval af efni beint í símann sinn.

NR 1

### Já.is - símaskráin í símann þinn



Þegar einhver hringir í þig leitar appið í símaskrá já.is hver er að hringja í þig, að því gefnu að viðkomandi sé ekki vistaður í símaskránna þína. Þú getur vistað viðkomandi á auðveldan hátt í símaskránna þína að símtali loknu. Appið inniheldur einnig lista yfir misst símtöl og býður þér uppá að vista þau númer í símaskránna á símanum þínum.

NR 2

### 2. Icelandic Dictionary

Þetta app setur upp íslenska orðabók í símann þinn og auðveldar þér innslætti með því að þekkja orðin á meðan þú slærð þau inn. Ómissandi í dagsdaglegri notkun símans.

NR 3



### 3. Scandinavian Keyboard

Thetta app leysir mikid vandamal. Bráðnauðsynlegt fyrir alla áhugamenn um íslenskuna því þetta gerir android notendum kleift að slá inn séríslensku stafina þ, ð, æ, ö, á, é, í, ó o.s.frv.

NR 4

### 4. Advanced Task Killer

Mörg Android smáforrit keyra áfram jafnvel þótt þau séu ekki í notkun. Ef mörg forrit keyra í einu hægir það bæði á vinnslu símans sem og eyðir batterínu á óvenju skjótum tíma. Með Advanced Task Killer má slökkva á öllum forritum sem ekki eru í notkun með einni skipun. Bráðnauðsynlegt fyrir alla Android notendur.

NR 5

### 5. Facebook

Með Android símanum fylgir Social Networking app sem tengir notandann við Facebook og Twitter. Þetta Facebook app er mun íburðarmeira fyrir Facebook notendur og bjóða uppá skemmtilegri vöfrun innan samfélagsins.

NR 6

### 6. Barcode Scanner

Að slá inn langa texta í síma getur tekið langann tíma, sérstaklega ef puttarnir eru stubbslegir eins og hjá undirrituðum. Vísun í lén og forrit er í sífellt meira mæli að birtast með svokölluðum QR kóðum en það eru ný gerð kassalaga strikamerkja. Með Barcode scanner getur þú einfaldlega beint myndavél símans á svona strikamerki og hann fer á þá síðu eða sækir það forrit sem kóðinn vísar í.

NR 7

### 7. GOAL.com Mobile

Ertu að fylgjast með fótboltanum? Goal.com appið flytur þér nýjustu fréttir af leikjunum í beinni lýsingu. Öll mörkin, öll spjöldin, öll tilþrifin og tölfræðin. Þú getur líka skoðað fréttir og úrslit síðustu daga eða vikna sem og stöðuna í keppnunum og deildunum.

NR 8



### 8. Google Reader

Hvaða fréttasíðum fylgistu vel með? Fyrir fréttafíkilinn er ógjörningur að fylgjast með öllum fréttunum því tíminn sem fer í að vafra milli vefsvæða er geigvænlegur. Með Google Reader getur þú gerst áskrifandi af fréttum þeirra vefsvæða sem þú fylgist með. Sami aðgangurinn gerir þér kleift að sækja fréttirnar í tölvunni. Forritið nýtir sér svokölluð RSS feed til að sækja nýjustu fréttirnar og birta þér á auðlæsan máta.




NR 9

### 9. Leggja.is

Hver kannast ekki við að koma í bæinn og finna draumastæðið þegar maður fattar að klinkið vantar. Ekki örvænta því með Leggja.is appinu getur þú borgað í stöðumælinn í gegnum símann þinn. Snilldar þjónusta og frábært framlag.

NR 10

### 10. Google Translate

Við eyjaskeggjar erum á sífelldum faraldsfæti, jafnvel þótt árið 2008 hafi sett strik í reikninginn. Með Google Translate appinu getur þú þýtt texta á milli 50 mismunandi tungumála. Þetta er mjög hentugt fyrir ferðalanginn sem á erfitt með að gera sig skiljanlegan í fjarlægum löndum.

# MORTAL KOMBAT™

EFTIR DANÍEL PÁL JÓHANNSSON
DANNI@NORDNORDURSINS.IS



Árið 1992 gaf framleiðandinn Midway út tölvuleik sem hét því frumlega nafni *Mortal Kombat*. Leikurinn var gefinn út á spilakössum sem svar Midway við leiknum *Street Fighter II* frá Capcom. Vinsældir *Mortal Kombat* komu varla á óvart því þarna var kominn þvílíkur bardagaleikur með góðan söguþráð og gott bardagakerfi.

Ári síðar hófu Midway að gefa út *Mortal Kombat* á leikjatölvur til að auka markaðshlutfall sitt. Þeir gáfu *Mortal Kombat* leikinn út fyrir Sega Mega Drive/Sega Genesis árið 1993 en þar sem það voru miklar hömlur á hvað innihald tölvuleikja á þessari vél mátti vera, þurftu Midway að breyta leiknum til að taka ofbeldisfyllstu möguleikana úr leiknum. Þeir komust framhjá því, upp að vissu marki með því að hafa leynikóða í leiknum, ef að kóðinn var sleginn inn var ritskoðunin tekin út og spila mátti leikinn í allri sinni fullri, blóðugri gleði.
Því má segja að boltinn hafi byrjað að rúlla fyrir *Mortal Kombat* sögunni árið 1992.

Nýjasti *Mortal Kombat* leikurinn kom út 19.apríl í Bandaríkjunum en 21.apríl í Evrópu og er þetta níundi leikurinn sem ber nafnið (fyrir utan fjölda viðbóta). Leikurinn var í þetta skiptið framleiddur af NetherRealm Studios, áður þekkt sem Midway Games Chicago, árið 2009 fór Midway Games í gjaldþrot, en þeir framleiddu fyrri Mortal Kombat leikina. Eftir gjaldþrot Midway Games eignaðist Warner Bros. Mortal Kombat vörumerkið. Ekki þarf að örvænta þar sem reynsluboltarnir Ed Boon og John Tobias koma að verkinu, en þeir eru skaparar Mortal Kombat. Nýjasti leikurinn er gefinn út fyrir Xbox 360 og PlayStation 3 en ýjað hefur verið að PC útgáfu en það hefur ekki verið staðfest.

## SAGAN

Söguþráðurinn í leiknum byggist á því að Shao Kahn hefur náð takmarki sínu og náð völdum yfir jarðarríki. Í bardaga milli Shao Kahn og

Raiden, þrumuguð sem er verndari jarðarríkis, nær Raiden að senda skilaboð í fortíðina til sjálfs síns. Raiden í fortíðinni fær stuttar sýnir sem leiðbeina honum hverju þarf að breyta í fortíðinni til að laga framtíðina, en oft getur verið erfitt að ráða í sýnirnar. Með þessu spilar spilarinn í gegnum söguna í fyrstu þremur *Mortal Kombat* leikjunum en með mismunandi endalokum.

## BARDAGAMENN

Í leiknum eru 27 spilanlegir bardagamenn fyrir Xbox 360 en 28 fyrir PlayStation 3, þar sem PlayStation 3 eigendur fá þann glaðning að geta spilað Kratos, aðalsöguhetjuna úr leikjunum *God of War*.

Hver og einn bardagamaður hefur sinn bardagastíl, styrkleika og veikleika. Hvort sem hann sé hraður en slær létt högg eða hægur en slær þung högg. Í leiknum eru þrír endakallar sem ekki er hægt að spila sjálfur. Suma bardagamenn hefur spilarinn ekki aðgang að í byrjun leiksins heldur þarf að uppfylla ákveðin skilyrði til að fá að njóta þess að spila alla flóruna af bardagamönnum sem hægt er að velja úr.

## RUNUR (E. COMBOS), BRÖGÐ (E. SPECIAL MOVES) OG FATALITIES

Hver bardagamaður hefur sinn fjölda af runum högga sem hægt er að framkvæma. Auðvelt er að komast að þeim skipunum sem þarf til að framkvæma runurnar en með því að læra þessar runur er spilarinn að margfalda möguleika sína á að jarða andstæðinginn í bardaga. Hægt er að segja að runurnar séu grundvallaratriði leiksins og eitthvað sem hver spilari ætti að ná fullkomnum tökum á.

Hver bardagamaður hefur líka sitt sett af Brögðum sem oft geta skipt sköpum í bardaga. Þau eru framkvæmd með því að ýta á runu af tökkum, svo sem niður-áfram-sparka, og þau eru flest mismunandi. Sum skjóta eldhnöttum þvert yfir borðið eða grípa andstæðing og henda honum í jörðina eftir að nokkur högg með olnboga hafa verið gefin



í andlitið á andstæðingum, og allt þar á milli. Eins og við má búast í *Mortal Kombat* leik þá eru Fatalities til staðar. Hver bardagamaður er með tvö einstök *Fatality* en ekki skal framkvæma þau nema að þú sért með harða sál, því þau eru ofbeldisfullustu endabrögð sem sést hafa í *Mortal Kombat* seríunni. Til dæmis má nefna það að fjöldi endabragða innihalda limlestingar með tilheyrandi blóðsúrhellingum og er búkur jafnvel tekinn í tvennt þegar limlesting hefur verið framkvæmd. Í sjö borðum er hægt að framkvæma *Fatality* sem tengjast umhverfi borðsins. Í þeim getur endabragðið verið að kýla andstæðing af brú svo hann falli niður tugi metra á gadda eða henda honum út í sýrupytt þar sem húð hans bráðnar.

## ORKUMÆLIR (E. SPECIAL BAR)

Spilarinn er með orkumæli sem fyllist með nokkrum aðferðum. Það bætist í mælinn ef spilarinn er barinn, spilarinn slær höggum á andstæðinginn sem ver sig eða með því að nota Brögð með þeim bardagamanni sem verið er að spila með. Orkumælirinn skiptist í þrjú stig. Þegar fyrsta stigið er fullt er hægt að nota það til að efla Bragðið sem á að framkvæma. Þegar mælirinn er kominn með tvö stig getur spilarinn sleppt úr Runu sem er verið að framkvæma á hann. Þegar mælirinn er fullur er hægt að framkvæma *X-Ray* árás sem er algjör nýjung í bardagaleikjum. Ef spilaranum tekst að framkvæma *X-Ray* árás þá fær hann að upplifa það að sjá hversu mikinn skaða bardagamaður hans getur gert, en þar sést hvernig bein brotna og líffæri skaddast. Þessar árásir eru með þeim öflugustu í leiknum og geta algjörlega snúið við gangi bardaga.

## BORÐIN

Borðin sem bardagarnir fara fram í eru ófá, en það eru 24 stykki fyrir Xbox 360, en 25 stykki fyrir PlayStation 3 þar sem eitt borðið er sérhannað fyrir Kratos og hefur *God of War* yfirbragð. Mikið er lagt í borðin og oft mikið að gerast í bakgrun-



ninum, sem hefur ekki áhrif á bardagann en er skemmtilegt augnakonfekt. Borðin í nýja *Mortal Kombat* leiknum eru í tvívídd, þannig að spilarinn eða andstæðingurinn hefur ekki möguleika á að rölta í hringi. Heldur er bardagavöllurinn þannig að hægt er að fara til hægri eða vinstri og auðvitað hoppa upp í loftið. Þarna er verið að sækja í rætur *Mortal Kombat* leikjanna en undanfarið hafa sumir bardagaleikir, ásamt fyrri *Mortal Kombat* leikjum, innihaldið möguleikann á að labba í hringi á vellinum.

## EINSPILUN

Í einspilunarhluta leiksins hefur spilarinn fjölda valmöguleika. Spilarinn getur valið að fara í gegnum kennslu, þar sem hann lærir helstu hreyfingar og hvernig skal berjast í leiknum. Mjög sniðugt bæði fyrir nýgræðinga og lengra komna að dusta aðeins rykið af þumlunum og læra hvernig bardagakerfið í leiknum virkar. Spilarinn getur líka valið að keppa í stuttu móti, sem inniheldur fjölda andstæðinga, tvo undir-endakalla og einn loka-endakall. Í lok hvers móts kemur stutt sena um þann leikmann sem spilarinn notaði til að vinna mótið, þarna er ýtt undir það að klára þessi mót með sem flestum, ef ekki öllum, bardagamönnum sem spilarinn hefur möguleika á að velja.
Í einspilunni er auðvitað hægt að velja að spila sögu leiksins en þar fær spilari ekki að velja hvaða bardagamann hann notar í gegnum söguþráðinn, heldur skiptist um bardagamann eftir því hvar spilarinn er staddur í söguþræðinum. Líka er hægt að velja að æfa sig á þeim bardagamanni sem spilarinn vill og hægt er að velja hvað hann vill æfa, svosem Runur, Brögð eða Fatality.

Í einspilun getur spilarinn líka valið að spila *Challenge Tower* sem er turn með 300 hæðum. Á hverri hæð er áskorun sem spilarinn þarf að klára til að komast upp á næstu hæð. Áskoranirnar geta verið þannig að spilarinn þarf að sigra andstæðing, skjóta skotum á her andstæðinga, hamra á takka til að ná nógu miklum styrk til að brjóta múrsteina, keppa við andstæðing sem er sterkari en venjulega eða jafnvel að berjast við andstæðing sem er að reyna að gefa þér bangsa.

## FJÖLSPILUN

Hér er auðvitað hægt að spila einn á móti einum í bardaga. Einnig er núna möguleiki á að hver spilari velji sér tvo bardagamenn en leikurinn býður upp á það að skipta þeim út í miðjum bardaga og jafnvel að tengja saman Runur þeirra. Þar sem í þessum valmöguleika er hægt að hafa fjóra bardagamenn þá ákveðið að bjóða upp á að hafa fjóra spilara, þannig að hver og einn stýrir sínum bardagamanni og þegar honum er skipt inn á völlinn getur hann barist við andstæðing þangað til að hann skiptir sér út fyrir meðspilara. Síðan er skemmtilegur spilanamöguleiki sem Konungur Hólsins, en þar er búið til svokallað herbergi með allt að átta spilurum. Tveir af spilurunum berjast á meðan hinir bíða eftir sínum tíma til að komast í bardaga. Sigurvegarinn fær að halda áfram að berjast á meðan sá sem tapar er settur aftastur í röðina af spilurum. Þeir sem eru að bíða sjá bardagann sem er í gangi og geta bæði veðjað á útkomuna og/eða gefið þeim leikmanni sem vann bardagann einkunnagjöf.

## GAGNRÝNI

Nýjasti *Mortal Kombat* leikurinn er einn skemmtilegasti og ofbeldisfullasti leikur sem ég hef gripið í lengi. Góður fjöldi af bardagamönnum til að velja úr og flestir stórskemmtilegir í spilun. Þetta er einn af þessum leikjum sem auðvelt



er að læra á en erfitt að verða meistari í. Með möguleikann á að þjálfa sig með þeim bardagamönnum sem maður hefur áhuga á að fullkomna þá er ekkert sem getur stoppað mann. Grafikin í leiknum er unaðsleg, mætti jafnvel segja að hún sé eins og einhyrningur að njóta ásta með augum manns. Grafikin er ekki of lík raunveruleikanum og ekki heldur of teiknimyndaleg. Heldur passar hún nákvæmlega bardagaleik sem þessum. Nóg er blóðið og skemmtilegt að sjá þann sem maður er að spila og andstæðingana fá sár og verða útataða í blóði eftir því sem líður á bardagann. Það gefur af sér að spilarinn átti sig á því að bardagamaðurinn er að verða fyrir höggum og það hefur áhrif á þrautsegju í keppni. Þegar bardagar eru tæpir hikar hjartað í manni ekki við að annað hvort sleppa nokkrum slögum eða jafnvel að auka þau allsvakalega þannig að adrenalínið rennur um æðarnar meðan verið er að finna allar mögulegar leiðir til að vinna andstæðingin. Þessi spenna magnast þegar verið er að spila við mennskan andstæðing og því mælir undirritaður sterklega með því að spila með vinum eða yfir netið. Það að ná að sigra andstæðing sinn gefur svo mikla vellíðan að spilaranum finnst hann geta sigrað heiminn. Ég mæli sterklega með því að þumlarnir séu í góðu formi því í þessum leik mun reyna á þá sem aldrei fyrr en þú kemst fljótt í æfingu. Sumir kvarta undan sársauka í þumlum, en aðeins meistarar halda áfram og verða guðir í leiknum. Með alla möguleikana sem þessi leikur býður uppá er varla hægt að trúa öðru en að margir verði ástfangnir af leiknum. Söguþráðurinn er eins og í alvöru B-mynd, þannig að ekki búast við neinni snilld þar. Heldur getur hann orðið svolítið sérstakur og hægt er að spá að spilari fái þónokkra kjánahrolla. En við hverju er hægt að búast? Það er söguþráður og þrátt fyrir B-mynda yfirbragði þá er stórskemmtilegt að spila í gegnum söguþráðinn og fá að berjast í sögudrifnum bardögum þar sem oft eru líkurnar á móti spilaranum. Bardagarnir geta verið vel strembnir en til þess er leikurinn gerður.

Hljóðin í leiknum eru vel gerð og maður finnur oft til með fórnarlömbunum þegar heyrist í beinum brotna og hljóð eins og verið sé að berja svínsskrokk með hafnarboltakylfu. Tónlistin er vel gerð og gaman að heyra suma gamla slagara sem hafa verið endurunnir.

Þetta er eðal leikur til að spila með vinum og kunningum þegar þeir kíkja í heimsókn og oft sést þeirra innra dýrseðli þegar bardaginn er orðinn tæpur. Varla er hægt að spila leikinn án þess að sitja á brúninni á stólnum vegna spennings. Síðast en ekki síst er æðislegt að sjá blóðsletturnar fljúga í hinar og þessar áttir þegar spilaranum hefur tekist að framkvæma góða árás og slettast á andstæðinginn og sjálfan sig. Svo ef vel tekst og bardaginn er sigraður fær sigurvegarinn það æðislega skemmtilega tækifæri að framkvæma Fatality, og þar skín *Mortal Kombat*. Það að rífa andstæðinginn í sig eftir vel heppnaðann bardaga er unaður. Tilfinningin að sjá bardagamann spilarans, vægast sagt, misþyrma andstæðingum á því stigi að sálin fær ör er svakaleg. Ég mæli hiklaust með þessu leik, bæði til að kíkja í þótt að þú sért ein/n eða með vinum og félögum. Þótt að þú sért að taka þér korters pásu frá lærdómi eða spila í heila kvöldstund. Þá er það að kíkja í þennan leik algjörlega þess virði.

Grafík: 9.5
Hljóð: 9.0
Saga: 6.5
Spilun: 9.0
Endurspilun: 9.0
**Samtals: 8.6**

**Heimildir:**
**- mortalkombat.wikia.com**
**- 2en.wikipedia.org/wiki/MortalKombat**






*PewPewPewPewPewPewPewPewPew* er tveggja manna tölvuleikur sem nýlega var gefinn út af óháða tölvuleikjafyrirtækinu Incredible Ape þar sem eru einungis tveir starfsmenn; annar sér um forritun og hinn um útlitið. Í leiknum stjórna spilararnir manni í geimbúningi gæddum þotubagga (e. jetpack) og geislabyssu. Maðurinn færist sjálfkrafa frá vinstri til hægri í gegnum leikinn og þurfa spilarar að nota þotubaggan og byssuna til að forðast hindranir og eyða óvinum sem á vegi hans verða.

Það er ekki einungis titill leiksins sem vekur áhuga og forvitni, heldur einnig stjórnun hans. Spilarar nota hvorn sinn hljóðnemann í stað hefðbundinna stjórntækja. Annar spilarinn stjórnar þotubagganum með því að gefa frá sér þotubaggaleg-hljóð (hvernig svo sem þau eru!) og hinn spilarinn sér um að skjóta úr byssunni með því að segja „***PEW!***“ í hljóðnemann. Í rauninni er hægt að leika sér mikið með hljóðin og er hugmyndin hreint út sagt frábær.

Helsti galli leiksins eru hljóðtöfin í honum. Það líður u.þ.b. ein sekúnda frá því að hljóðið er myndað þar til leikurinn svarar hljóðinu – þetta getur gert spilunina erfiða þar sem snögg viðbrögð spilarans bjarga honum sjaldan frá dauða í leiknum. Það hefði einnig verið gaman að sjá mismunandi kraft koma úr þotubagganum eftir því hversu hátt eða lágt hljóð spilarinn gefur frá sér, en bagginn er einungis með tvær stillingar; annað hvort er slökkt á honum eða kveikt.

*PPPPPPPPP* hefur verið fáanlegur í gegnum netverslun Xbox Live (XBLM) frá því í byrjun apríl og kostar litla 240 Microsoft punkta, eða í kringum 350 kr. Hljóðnemar sem virka í Xbox 360 eiga að virka í leiknum – sama hvort um er að ræða hljóðnema úr karíókíleiknum Lips eða hefðbundin heyrnatól með hljóðnema sem fylgir mörgum Xbox 360 tölvum.

Leikurinn er mjög skemmtilegur tveggja manna leikur og mjög skemmtilegur í spilun, sama hvort það sé á þriðjudagskvöldi með fjölskyldunni eða í helgarpartíi með vinunum.

*- BÞJ*

# PORTAL™ 2



EFTIR BJARKA ÞÓR JÓNSSON



Árið 2007 kom þrautaleikurinn *Portal* út og náði miklum vinsældum. Nú, fjórum árum síðar, hefur leikjafyrirtækið Valve (*Half-Life*, *Portal*, *Left 4 Dead*) gefið út framhald af leiknum – ***Portal 2*** – sem byrjar þar sem fyrri leikurinn endaði.

## SÖGUÞRÁÐUR

Í leiknum er haldið áfram með söguna úr fyrri leiknum þar sem þrautir hafa verið hannaðar í tilraunarskyni af tilrauna- og rannsóknarstofunni Aperture Science í þeim tilgangi að rannsaka leiðir og möguleika á þrautalausnum og tækninýjungum. Fyrri Portal leiknum lauk með eyðileggingu á GLaDOS, sem var kaldhæðin og stórhættuleg tölva gædd gervigreind og með einstakan persónuleika. Snemma í *Portal 2* kemur í ljós að GLaDOS er í raun enn á lífi og getur ekki beðið eftir því að leggja fleiri þrautir fyrir Chell, aðalpersónu leiksins.

Chell kemst í kynni við persónuleikakúluna Wheatley og í sameiningu reyna þau að losna úr klóm GLaDOS, sem leggur fleiri, erfiðari og hættulegri þrautir fyrir Chell.

## PERSÓNUR

Spilarinn stjórnar Chell, aðalpersónu leiksins, sem er tilraunadýr hjá Aperture Schience. Líkt og í fyrri leiknum segir Chell ekki stakt orð í *Portal 2* og fær spilarinn lítið að sjá persónuna sjálfa ( - hún er þessi sterka þögla týpa). Þar af leiðandi kynnist spilarinn persónunni lítið og veit jafn lítið um hana í lok og byrjun leiks. Af og til gleymir spilarinn að hann sé að stjórna Chell en ekki sjálfum sér, þar sem Chell virkar í raun eins og milligönguliður spilarans og þrautaheimsins í *Portal 2*.

Tölvukerfið GLaDOS (Genetic Lifeform and Disk Operating System) er sjálfri sér lík og ælir uppsafnaðri kaldhæðni yfir spilarann og heldur áfram með morðtilraunir sínar. GLaDOS sést ekki mikið í leiknum til að byrja með en hún talar reglulega við Chell í gegnum hátalarakerfi Aperture Science. Þeir spilarar sem ekki þekkja til GLaDOS eiga eftir að njóta þess að kynnast henni. Hún sýnir og sannar að hægt er að byggja snilldarlega sögupersónu á persónuleikanum einum og sér. Ef þú elskar kaldhæðni og húmor (og grimmd!), þá er GLaDOS þín draumadís.

*„GLaDOS er sjálfri sér lík og ælir uppsafnaðri kaldhæðni yfir spilarann og heldur áfram með morðtilraunir sínar. “*

Í upphafi kemst Chell í kynni við persónuleikakúluna Wheatley. Grínistinn Stephen Merchant ljáir kúlunni rödd sína en Stephen er best þekktur fyrir að vera einn af handritshöfundum sjónvarpþáttanna *The Office*, *The Ricky Gervais Show* og *Extras*. Wheatley minnir óneitanlega á samstarfsfélaga Stephens, breska grínistan Ricky Gervais, allt frá því hvernig hann beitir röddinni yfir í sjálfan húmorinn. Útlitið minnir þó ekki á Ricky, en Wheatley er persónuleikakúla sem er vélkúla án búks.

Spilarinn fær einnig að kynnast Cave Johnson, stofnanda Aperture Science, í gegnum hljóðkerfi tilraunastofanna. J. K. Simmons (Law & Order, The Closer og Oz) talar inn fyrir Cave sem setur vísindin fremst á oddinn.

Talsetning og handrit leiksins er mjög vel heppnuð. Þrátt fyrir að heyra einungis raddir leikjapersónanna meirihlutann af leiknum, fær spilarinn aldrei leið á persónunum og þær hvetja hann til að halda áfram með leikinn til þess að komast að því hvað þær segja næst.

Í samspilunarmöguleika (e. co-op) leiksins fara spilarar í hlutverk vélmennanna Atlas og P-body. Atlas er lágvaxin og feitlagin persónuleikakúla og P-body er langur og mjór byssuturn (e. turret) og hefur verið bætt hand- og fótleggjum við vélmenninn, auk þess eru þau bæði vopnuð „portal byssu“. Útlit þeirra og hegðum minnir gjarnan á grínteymið Laurel og Hardy.

## SPILUN OG ÞRAUTALAUSNIR

Spilun leiksins er nákvæmlega eins og í fyrri *Portal* leiknum. Spilarinn getur gengið um, hop-

það, lyft upp og skriðið undir hluti og skotið úr byssunni sinni. Hvert borð er ein þraut sem getur verið allt frá afar einfaldri þraut sem aðeins tekur nokkrar sekúndur að leysa og yfir í erfiðar þrautir sem tekur þar af leiðandi lengri tíma að leysa.

Allar þrautirnar ganga út á það sama – að komast frá punkti A yfir á punkt B. Þegar Chell getur ekki gengið á milli staða notar hún byssuna til að komast áleiðis. „Portal byssan" virkar þannig að skotið er tveimur geislum sem mynda hlið (e. portal) á sitthvorn staðinn, þannig er hægt að gangi inn í annað hliðið og koma út um hitt. Hægt er að nota hliðin á marga vegu, t.d. ef spilarinn gerir eitt hlið í gólfið og annað beint fyrir ofan það að þá verður til endalaust fall þar sem Chell birtist í loftinu um leið og hún fellur ofan í holuna og hrapar, og hrapar, og hrapar, og hrapar. Og hrapar. Eða þar til spilarinn ákveður að færa Chell eða gera nýtt hlið.

Til að byrja með eru leiðirnar frá A til B frekar einfaldar en verða erfiðari og erfiðari því lengur sem líður á leikinn. Oft þarf að sækja kassa og koma þeim fyrir á réttum stað svo að hurð opnist sem leiðir spilarann áfram í næstu þraut. Stundum þarf að beina leysigeisla á réttan staði eða koma í veg fyrir að hann beinist á ákveðin stað.

Í *Portal 2* eru nýjar leiðir frá fyrri leiknum til að leysa sumar þrautir. Til dæmis þarf stundum að nota gel til að komast áfram í leiknum. Alls eru geltegundirnar þrjár, blátt gel sem breytir yfirborðinu í stökkpall, appelsínugult gel sem eykur hraða og hvítt gel sem breytir hvaða yfirborði sem er svo það verði „portal-hæft". Auk þessara geltegunda þarf spilarinn stundum að nota brýr, varnir og göng til að komast áleiðis.

Það er afar misjafn hvað spilarar eru fljótir að klára aðalsögu *Portal 2* þar sem það fer algjörlega eftir því hversu langan tíma það tekur viðko-





mandi að leysa þrautirnar. Virðist það taka flesta á bilinu sex til tíu klukkutíma að klára söguþráð leiksins, ég var u.þ.b. sjö tíma að því. En auk þess er sérstakur samvinnukafli (e. co-op) sem tekur u.þ.b. Sex klukkutíma að klára og annar kafli þar sem leikjahöfundar og hönnuðir segja frá gerð leiksins og þarf spilarinn að leysa þrautir til að vinna sér inn upplýsingarnar frá þeim.

## SAMVINNA

Fyrri *Portal* leikurinn var eins manns leikur, en í þetta skipti er boðið upp á samvinnuspilun (e. co-op) þar sem tveir spilarar þurfa að leysa þrautir saman sem vélmenninn Atlas og P-body. Spilararnir tveir geta spilað í gegnum sömu tölvuna í deiliskjá (e. splitscreen) eða á sitthvorri tölvunni í gegnum netið.

Samvinnuspilunin er mjög skemmtileg og reynir á samhæfni og þolinmæði. Þrautirnar eru þannig gerðar að það er ómögulegt að leysa þær einn – það þarf tvo til. Oft þarf spilari eitt að fara aðra leið en spilari tvö, sem gerir leikinn enn frumlegri og skemmtilegri.

Þar sem að *Portal 2* er þrautaleikur er mun auðveldara að plata aðra til að spila með sér. Þeir sem njóta þess að fá kláða í heilann eiga að gefa þessum leik séns, sama hvort viðkomandi spilar tölvuleiki reglulega eða ekki. Þetta er leikur fyrir þá sem hrífast að skák, sudako, krossgátum, já! - og auðvitað tölvuleikjum! *Í Portal 2* hefuru nægan tíma til að hugsa og prófa þig áfram í þrautum leiksins.

*„Þeir sem njóta þess að fá kláða í heilann eiga að gefa þessum leik séns...“*

